# Sameiningin.

*Mánaðarrit til stuðnings kirkju og kristindómi Íslendinga, gefið út af hinu ev. lút. kirkjufélagi Ísl. í Vestrheimi.*

RITSTJÓRI *JÓN BJARNASON.*

13. árg. | WINNIPEG, APRÍL 1898. | Nr. 2.

## Páskamorgun.

Sálmr eftir *Grundtvig* í ísl. þýðing eftir Jón Runólfsson.

(Lag: Eg í bœnum á þig mæni.)

1. Páskamorgun mannkynssorga,
mannkynssorga þerrar tár,
lífi manna ljóssins sanna
ljóssins sanna morguns-ár.
Páskamorgun mannkynssorga,
mannkynssorga þerrir tár.

2. Alheimsblysið árla risið!
árla risið! Myrkrið þver,
Ljóssins fjandi ljóssins brandi,
ljóssins brandi sleginn er.
Alheimsblysið árla risið!
árla risið! Myrkrið þver.

3. Syngja hæðir sigrkvæði,
sigrkvæði' um fjörgjöf hans,
hans, er dó oss, hans, er bjó oss,
hans, er bjó oss lífsins krans.
Syngja hæðir sigrkvæði,
sigrkvæði' um fjörgjöf hans.

4. Engla skarar ofan fara,
ofan fara gegn um ský;
gröfin ljómar, gleði hljóma,
gleði hljóma boðin ný.
Engla skarar ofan fara,
ofan fara gegn um ský.

5. Brott er nauð og breytt er dauðans,
breytt er dauðans ógn í líf;
gröfin ljómar guðs meðal blóma,
guðs meðal blóma í Jesú hlíf.
Brott er nauð og breytt er dauðans,
breytt er dauðans ógn í líf.

6. Englasæti, englakæti!
englakæti' í grafar hlé!
Sœtt mun bólið sett í skjól við,
sett í skjól við lífsins tré.
Englasæti, englakæti!
englakæti' í grafarhlé!

7. Ljóssins anda logabrandi,
logabrandi' í myrkrið slær;
myrkrum glapið mannkyn daprt,
mannkyn daprt huggast fær.
Ljóssins anda logabrandi,
logabrandi' í myrkrið slær.

8. Gull í mundu gefr stundin,
gefr stundin þessi oss:
ljóssins hjarta, lífsins bjarta,
lífsins bjarta sigrhnoss.
Gull í mundu gefr stundin,
gefr stundin þessi oss.

8. Ljóss í gerfi loks vér hverfum,
loks vér hverfum gegn um ský.
Herrans veldi hljómi eldleg,
hljómi eldleg kvæði ný.
Ljóss í gerfi loks vér hverfum,
loks vér hverfum gegn um ský.

## Það, sem mest er og bezt í bókmenntum heimsins.

(Niðrlag.)

Þegar Dean Stanley heimsótti Heinrich v. Ewald, lá nýja testamentið gríska í smáútgáfu einni á borðinu. Það féll á gólfið og Ewald tók það upp. En um leið og hann lagði það aftr á borðið, komst hann við og sagði í reglulegum guðmóði: „Í þessari litlu bók er fólginn bezti vísdómr heimsins.“ Hafði hann ekki rétt að mæla? Tökum hin fimm helgirit Confucíusar, „Veda“-bœkrnar, „Tripitaka“, allt safn „hinna helgu bóka austrlanda“, „samtöl“ Platons, „siðfrœði“ Aristotelesar, siðfrœðisritgjörðir Síserós, „handbók“ Epiktetusar, bréf Seneku, „hugleiðingar“ Markúsar Árelíusar, kóran Múhameðs—öll ágætustu blóm siðalærdómsins heiðna; og snúum oss svo að bókmenntum kristninnar, og tínum saman allar göfugar hugsanir, sem vér finnum hjá kirkjufeðrunum, skólaspekingunum á miðöldunum, dulspekingunum, í ritinu eftir Kempis „Krists eftirbreytni“, hjá Tauler og Bunyan og fleirum og fleirum. Og þar sem vér í öllum heiðnum ritum og sumum hinna kristnu munum finna sitthvað ófullkomið og sumt jafnvel skaðlegt, þá er óhætt að fullyrða, að hvorki í ritunum frá tíðinni fyrir Krist né þeim frá tíðinni eftir Krist sé nein sú siðgœðishvöt eða sannleiksmeginregla fyrir lífið tekin fram—að eg nú ekki nefni dýrstu sannindi trúarinnar—, að ekki megi fœra fyrir þeim kenningum dýpri ástœður og kröftugri rökstuðning með því, sem ritað stendr í nýja testamentinu einu, ekki stœrri bók en það þó er. Hugsum um þetta, og bœtum svo við það þeim eiginlegleika nýja testamentisins, að það á jafnt við allt fólk, ungt og gamalt, á hvaða menntunarstigi sem það stendr, og í hvaða kjörum sem það er, á öllum öldum, í hvaða landi eða loftslagi sem vera skal og hverjum þjóðflokki sem það til heyrir. Og myndi svo ekki þetta, auk alls annars, sem enn mætti taka fram, ómótmælilega sýna og sanna, að þetta helga ritsafn á sæti efst í bókmenntum heimsins og hefir þann hugsunarstyrk í sér, sem enginn annar rithöfundr getr keppt við? — —

— — Og svo að ending örstutt yfirlit yfir rit hins nýja sáttmála í hinni eðlilegu röð þeirra.

Matteusar guðspjall er guðspjall hins gyðing-kristna manns

og hinnar liðnu tíðar, að því leyti, sem Messías kemr þar fram eins og um hann hafði spáð verið af spámönnum gamla testamentisins. Markús ritar guðspjall sitt fyrir Rómverja, samtíðarmenn sína. Það er guðspjall hinnar yfirstandandi tíðar— frá sjónarmiði höfundarins. Lúkas ritar guðspjall sitt fyrir Grikki og hina ókomnu tíð. Í guðspjalli Jóhannesar er persóna Jesú Krists sýnd í hennar guðmannlegu dýrð; — það er guðspjallið fyrir eilífðina; og í Kristi rennr þar allt saman í eitt: liðni tíminn, hinn yfirstandandi tími, ókomni tíminn og eilífðin.

Gjörðabók postulanna er saga um fœðing og fyrstu framrás kristinnar kirkju. Það er elzta og ágætasta kirkjusagan, sem fœrð hefir verið í letr. Því næst koma hin dýrmætu bréf —pistlarnir—eftir hina miklu postula, tuttugu og eitt að tölu, hvert um sig með sínu sérstaka marki á sér eftir hinu mismunanda innihaldi þeirra. Hin tvö bréf Páls til Tessaloníkumanna hafa aðallega fyrir umtalsefni endrkomu Krists, sem kristið fólk á þeirri tíð bjóst svo bráðlega við. Aðalefnið í fyrra bréfinu til Korinþumanna er hin kristilega eining andans í trú, tilbeiðslu og lífi. Í síðara Korinþubréfinu heldr postulinn uppi vörn fyrir sjálfum sér, hinni postullegu framkomu sinni. Bréfið til Galata boðar frelsi kristinna manna, sem aldrei má skerða. Í Rómverjabréfinu er auk fleiri annarra lærdóma flutt kenningin um réttlætinguna af trúnni. Bréfið til Filippímanna sýnir oss dýrð kærleikans og þann fögnuð trúarinnar, sem hrósar frægum sigri, þá er útlitið er svo skuggalegt sem verða má. Bréfið til Kólossamanna sýnir einkum Krist sem allt í öllu. Bréfið til Efesusmanna er pistill uppstigningarinnar, pistill hinna „himnesku efna“, pistillinn um Krist að því leyti, sem hann lifir í hinni sönnu, eilífu, almennu kirkju. Bréfið til Filemons er fyrsta frelsisskrá þrælanna. Fyrra bréfið til Tímóteusar og bréfið til Títusar eru, samantekin í eitt, bezta handbókin fyrir presta, sem til er. Í síðara bréfinu til Tímóteusar kemr postulinn með hinar hlýju ráðleggingar sínar þessum ástfólgna lærisveini sínum til handa; en jafnframt sést þar svo dýrðlega, hve fullkominn er sigr kristinnar trúar hjá manni, sem einmana og af öllum yfirgefinn býst við píslarvættisdauða þá og þá. Hið aflmikla og afar merkilega bréf til Hebrea, sem enginn veit með vissu hver hefir ritað, sýnir Krist sem endimark og uppfylling

lögmálsins, sýnir hann að því leyti, sem hann veitir frelsan þá, er eilíflega fullnægir öllum. Jakob postuli ritar bréfið með hinu andheita alvörumáli um kristið siðgæði. Bréf Pétrs (hið fyrra) er pistill vonarinnar, og bréf Jóhannesar (hið fyrsta) er pistill kærleikans. Og loks koma hinar mikilfengu sýnir Opinberunarbókarinnar með hinu háa hugmyndaflugi. Því að enda þótt bók þessi sé eitt af elztu ritum nýja testamentisins, þá skipar hún þó réttilega sæti allra seinast í biblíunni. Hún er að efni til hið sjálfsagða niðrlag hins helga ritsafns, síðasti gimsteinninn, sem greyptr hefir verið inn í brjóstskjöld heimsbókmenntanna—eins og réttilega má kalla biblíuna. Og er vér hugsum um bók bókanna, heilaga ritning, í heild sinni, hljótum vér þá ekki að segja, að þar sé sá fjársjóðr geymdr, sem öllum öðrum er meiri? „Myndi nokkur þýðingarmikil spurning vera til, sem ekki sé veitt úrlausn á í þessum ritum? nokkurt djúp, sem ekki sé þar kannað? nokkur hæð svo há, að ekki sé þar komizt þangað upp? nokkur huggun til, sem ekki sé þar veitt? nokkurt hjarta, sem þar sé látið ósnortið? nokkur samvizka, sem eigi sé þar kölluð til ábyrgðar?“ Vér getum vissulega tekið undir með mönnunum, sem gáfu oss biblíuútlegginguna ensku frá 1611: „Séum vér fáfróðir, þá getum vér fengið fræðslu í ritníngunum; séum véum vér villtir, þá hjálpa þær oss til að rata heim; séum vér menn bilaðir, þá lækna þær það, sem bilaninni veldr; séum vér í þungu skapi, þá veita þær oss huggun; séum vér máttvana, þá hleypa þær í oss lífsafli; séum vér kaldir, þá gjöra þær oss heita. Tak og les! Tak og les!“

## Þýðing þess og gagn að vera meðlimr kirkjunnar.

Eftir E. SKAVLAN, prest í Norvegi.*)

Úr *Luth. Kirketidende*. Snúið hefir séra Friðrik J. Bergmann.

Hér er spurt um „þýðing þess og gagn að vera meðlimr kirkjunnar“. Eg vil þá byrja með að draga fram mynd úr ríki náttúrunnar. Þegar þú gætir að tré, sem stendr einmana, þar

*) Fyrirlestr, sem haldinn var á stiftsfundinum í Björgvin í Október 1897 til að innleiða umræður um þetta efni.

sem stormar og illviðri blása um það hindrunarlaust úr öllum áttum, munt þú verða þess var, að tré þetta hefir hvorki náð öflugum þroska né fagri lögun. Það hefir kippt úr því vexti; stofninn er boginn, greinarnar snúnar og hlykkjóttar. Ef þú vilt leita að beinvöxnum, sterklegum trjám, fer þú út í skóginn, þar sem trén standa í þyrping, hvert hjá öðru. Þar munt þú fagnandi finna tré með beinum stofnum og þéttlaufguðum krónum.

Hvað lærum vér nú af þessari mynd? Hún sýnir oss þýðing kristilegs félagslífs. Hún kemr oss í skilning um, hverja þýðing kristin kirkja hefir fyrir meðlimi sína. Því er líkt varið með hvern einstakan kristinn mann eins og trén. Félagskaprinn er honum þörf. Ef hann er einn, verðr hið andlega líf hans ófullkomið og gallað. En félagslífið verðr honum bæði skjól og skjöldr, eftir hinn andlega þroska hans, og er honum vörn gegn andlegum kyrkingi og aflögun.

Mynd þessa ættum vér að hafa fyrir framan oss, þegar rœtt er um *þýðing þess og gagn að vera meðlimr kirkjunnar.* Hún á að minna oss á, hvílíka gjöf vér höfum þegið þar sem kristin kirkja er og hvílíka gjöf hver einstakr hefir þegið um leið og hann varð meðlimr kirkjufélagsins.

---

Fyrsta spurningin, sem upp getr risið, er þá þessi: Hvaða þýðing eigum vér hér að leggja í orðið *kirkja*? Hvaða kirkja er þetta? Hve þröngt eða breitt svið eigum vér að afmarka henni? Þegar orðið *kirkja* er hér viðhaft án nákvæmari skilgreiningar, gætum vér farið að hugsa um hið mikla allsherjar félag: „hina heilögu, almennu kirkju". Þetta mikla félag lykr í sér hvern trúaðan einstakling meðal vor. Og vér gefum þessari kirkju samþykki vort í hvert skifti, sem vér af hjarta tökum undir orð þriðju greinar trúarjátningarinnar: „Eg trúi á heilaga, almenna kirkju". Eg játa þá sjálfan mig heyrandi þessari kirkju til og kannast við það með þakklæti til guðs, að eg hefi meðvitund um, hvílíka þýðing og hvílíkt gagn hún hefir fyrir sjálfan mig.

En þegar vér förum að komast eftir, hvernig vér persónulega í lífi voru, hver í sínu lagi, höfum reynt nytsemi þess að heyra kirkjunni til, leiðist hugsan vor eðlilega að hinu minna félagi, þeirri kirkju, sem vér fyrir guðlega forsjón vorum teknir inn í, þegar vér vorum skírðir, þar sem vér höfum öðlazt vort

andlega uppeldi og komizt til þekkingar á hinu himneska hnossí kirkjunnar. Vér hugsum þá um hina evangelisku lútersku kirkju vora og einkum kirkju þeirrar þjóðar, sem vér tilheyrum. Þá verðr þessi spurning fyrir oss: Hvaða þýðing og hvaða gagn hefir það fyrir oss að vera meðlimir þessarar kirkju? Þeir eru víst margir, sem svara myndi þessari spurningu hálf-neitandi. Þeir myndi svara sem svo: „Það er eiginlega ekki hœgt að segja, að kirkja þessa lands eins og hún er nú hafi mjög sterkt aðdráttarafl fyrir meðlimi sína. Til þess eru of margir gallar á ástandi hennar og brestir hennar of stórir og augljósir. Eins og nú er ástatt er hún ekki vel löguð til þess að ávinna sér traust og kærleik meðlima sinna.“

En er það rétt, að vera svo fjarlægr, svo kaldr gagnvart þeirri kirkju, þar sem vér hlutum skírn vora og eignuðumst það, sem vér eigum af andlegu lifi? Er það gott fyrir mann sjálfan að standa í svo mikilli fjarlægð? Geta allir gallarnir og brestirnir, — sem enginn af oss neitar, en allir kannast við og harma, geta allir þessir gallar verið nœgileg afsökun fyrir kristinn mann að vera kaldr í hug til sinnar eigin kirkju? Getr ekki félag með ýmsum ytri göllum haft töluverða þýðing, ef það á annað borð heldr sér fast við hin sáluhjálplegu grundvallarsannindi,—verið nauðsynlegt fyrir einstaklinginn, þrátt fyrir alla bresti? Er það eigi guð sjálfr, sem valið hefir fyrir oss og látið oss heyra einmitt þessari kirkju til? Og hefir eigi guð sjálfr komið því svo fyrir, að vér megum ekki án félagsins vera? Er oss eigi meðfœdd kristileg félagsmeðvitund, kristileg félagsþörf, sem vér bíðum tjón af að fullnœgja ekki?

Látum oss fara nokkrum orðum um þessa kristilegu félagsþrá.— Hver kristinn maðr veit það með sjálfum sér, að hjá trúuðum manni er þörf til að finna brœðr. Þessi þörf er eitt atriði í hinu andlega lífi hans. Hver kristinn maðr veit líka, hvaðan þessi þörf er sprottin. Hann hefir ekki gefið sér hana sjálfr. Hún er beinn ávöxtr af áhrifum guðs anda. Þessi þörf fœðist í hjarta trúaðs manns um leið og trúin. Lífið í guði fœðir af sér þörf til samfélags við aðra, sem fengið hafa hlutdeild í hinu sama lífi. Það vaknar löngun í hjarta trúaðs manns til að miðla öðrum, sem eins hugsa, af auðlegð sinni. Þetta er alkunn reynsla trúaðra manna. Andi drottins myndar andlegan skyldleika,

andlega lífssameining meðal kristinna manna. Og sú sameining verðr að koma í ljós. Trúaðr maðr leitar því eftir vinum. Ofr-lítill vinaflokkr, brœðrahópr, getr þannig myndazt. Og slík smáfélög geta haft fullkomna heimild. Ofr-lítill þvílíkr brœðrahópr getr orðið til mikillar blessunar, mikils fagnaðar og trúarstyrkingar.

En nú spyrjum vér: Getr þessi smáhópr veitt allt, sem trúarlífið þráir? Er þessi smáhópr fœr um að leysa af hendi öll þau ætlunarverk, sem drottinn hefir fengið kristnum mönnum í heiminum? Hefir ekki guð líka stœrri fyrirætlanir handa trúuðum mönnum hér á jörðu?

Vissulega. Og hér birtist oss þá kirkjan, kirkjufélagið, sem verkfœrið í guðs hendi til að framkvæma hin miklu ætlunarverk, sem guð hefir fyrirhugað trúuðum börnum sínum, gagnvart heiminum, sem enn þá eigi þekkir guð, og gagnvart trúuðum einstaklingum.

En nú kemr efinn. Þegar misfellurnar og ágallarnir í fari kirkjufélagsins gægjast fram, þegar allir brestir þess og ófullkomleikar koma í ljós, þá fer maðr að efast um þýðing félagslífsins, af því maðr fer að efast um, að svo ófullkomið félag sé fœrt um að leysa af hendi svo mikil ætlunarverk, og óttast fyrir, að ætlunarverkin sé hœfileikum þess og kröftum ofvaxin.

Að sönnu vitum vér allir, að þessi sýnilega kirkja eða þessi ýmsu jarðnesku kirkjufélög geta aldrei verið né orðið annað en ófullkomin að öllu leyti. Vér vitum, að söfnuðr guðs á jörðinni er ekki skrýddr brúðkaupsklæðum, hvorki að einu né neinu leyti; heldr gengr hann þvert á móti í sorgarbúningi meðan hann dvelr á jörðu. En þegar vér sjáum, hve mikinn tálma hin ytri skilyrði og hlutföll kirkjufélagsins geta lagt á leið þess, þar sem það er að reka erindi sitt í þjónustu drottins, þá er hœgt að skilja það, að til eru þeir, sem vakna láta hjá sér vantraust til þessa kirkjufélags. Og þá getr þessi spurning virzt hafa mikið til síns máls. Er svo ófullkomin kirkja fœr um að vera það, sem hún samkvæmt tilgangi drottins á að vera? Og getr það haft nokkra þýðing fyrir hvern trúaðan einstakling að vera henni tengdr?

Vér segjum, að þvílík spurning gæti virzt hafa nokkurn rétt á sér. En þá hlyti líka herra kirkjunnar, að hafa gefið oss

einhverja bending um, að hann gæti ekki notað þessa kirkju. Hann hlyti þá að hafa gjört það augljóst, að hann hefði tekið anda sinn frá þessu félagi.

En er þetta svo? Nei. það er oss til huggunar, að vér sjáum, að drottinn einnig í þessu tilliti er trúr, þótt vér séum ótrúir. Hann hefir sýnt það á öllum tímum, að hann hefir einnig getað haft kirkjufélag með mörgum göllum í þjónustu sinni heiminum til frelsis.

Allar hinar evangelisku þjóðkirkjur eru talandi vitnisburðr um þetta bæði fyrr á tíðum og nú á dögum. Drottinn hefir ekki tekið anda sinn frá neinni þeirra. Vér sjáum þess augljós merki, að andans hvítasunnuveðr blæs enn á mörgum stöðum, að hjörtun vakna og snúa sér til guðs, að til er enn andlegt líf, til að halda uppi starfseminni í ríki hans bæði inn á við og út á við.

Eins lengi og kirkjufélagið heldr sér fast við hið mikla atriði sáluhjálparinnar, eins lengi og það byggir á þessum hyrningarsteini, Jesú Kristi dánum fyrir syndir vorar og upprisnum oss til réttlætis, getr drottinn kannazt við þetta félag og notað það sem verkfœri sitt.

En eftir þessu skulum vér taka: Andlegr kraftr og þýðing hverrar einstakrar kirkju fer eftir því, hvílíka trúmennsku hún sýnir í útbýting þeirra náðarmeðala, sem henni er trúað fyrir. því nær sem kirkjan kemst sannleikanum með tilliti til orðsins og sakramentanna, til þeim mun meiri blessunar mun sú kirkja verða meðlimum sínum; þeim mun meira getr hún gefið þeim og fyrir þá gjört. En fari kirkjufélagið á einhvern hátt að víkja frá sannleikanum, annaðhvort að afbaka orðið eða rýra og draga úr gildi sakramentanna, veikist og dofnar eigin andans kraftr þess kirkjufélags og það hefir þá minna og minna að miðla börnum sínum. Í þessu tilliti höfum vér ástœðu til að þakka guði fyrir hina evangelisku kirkju vora og fagna yfir því, að vér heyrum henni til.

Vér getum því ekki kannazt við, að neinn, sem heyrir einhverri evangeliskri kirkjudeild til, hafi heimild til að segja, að hann hvorki geti þakkað þessari kirkju né elskað hana. þvert á móti virðist oss, að vér allir eigum henni mikið að þakka. það er ekki ástœða til að vilja fjarlægjast hana eða ekki hafa neitt

saman við hana að sælda, þótt henni kunni að vera ábótavant í mörgu. Ef einhverjum finnst hann eiga kirkjunni sinni fátt upp að unna, gjörir hann réttara í að spyrja sjálfan sig, hvort honum sé ekki sjálfum um að kenna, ef það er svo. Og hann myndi hafa mjög gott af að fara að hugsa um, hvernig hann ætti hér eftir að fara að, svo hann fengi komizt að raun um gagnsemi þess að eiga heima í þessari kirkju.

Í hverju er þá þýðing kirkjufélagsins fólgin fyrir hinn einstaka mann? Að hverju leyti er það gagnlegt fyrir einstaklinginn að heyra kirkjunni til?

1. Vér nefnum þá fyrst þetta: Kirkjufélaginu hefir verið gefinn máttrinn til að veita andlegu lífi einstaklingsins næring og leiðbeining, svo það fái haldizt við og þroskazt; þar að auk máttrinn til að styrkja það og verma og gjöra það sem innilegast. Hér mætti minna á gömlu, alþekktu líkinguna um kolið, sem brennr eitt sér, og kolin, sem brenna mörg saman. Þegar eitt kol liggr út af fyrir sig, veitir því örðugt að láta eldinn sinn lifa. En þegar það kemr saman við önnur fleiri, verðr hitinn miklu sterkari. Þannig er því varið með kirkjufélagið og einstaklinginn. Hvernig svo sem ástatt er fyrir oss í andlegu tilliti, höfum vér allir þörf á þessari hjálp. Hið andlega líf er ekki fullþroskað hjá neinum um leið og trúarlífið byrjar. Þvert á móti. Trúarlífið er eins og líkaminn, sem stöðugt breytist frá fæðingunni. Minnumst þess, sem postulinn segir um sjálfan sig í þessu tilliti: „Ekki að eg hafi þegar náð hnossinu eðr sé búinn að enda skeiðið, heldr keppist eg eftir að höndla það, með því eg er höndlaðr af Kristi.“ Félagið er fyrir einstaklinginn það, sem stofn trésins er fyrir greinina. Frá honum dregr greinin næring til vaxtar síns.

Guð hefir sjálfr fengið kirkjunni þetta ætlunarverk gagnvart börnum sínum. Vér vitum, að guð veitir ekki trúuðum mönnum allt, sem þeir þurfa fyrir hið andlega líf sitt, *beinlínis* fyrir heilagan anda. Hann gefr oss einnig marga hluti *óbeinlínis*. Hann notar verkfæri, milligöngumenn, og lætr þá færa hverjum trúuðum einstaklingi hinar andlegu gjafir. Þvílíkt verkfæri er kirkjan. Hún er ráðsmaðr yfir gjöfum drottins, sem hún á að veita hinum trúuðu. Kirkjan er oft kölluð móðir vor, og vér börnin hennar. Þessi líking getr gjört oss það ljóst,

á hvern hátt kirkjan hjálpar einstaklingnum. Móðirin sér um að börnin fái bæði fœðu og uppeldi. Í andlegum efnum megum vér án hvorugs vera og kirkjufélagið lætr oss það í té.

Vér höfum þegar bent á þá starfsemi kirkjunnar, sem felst í því, að hún útbýtir náðarmeðulunum. Fyrir heilbrigðan vöxt og viðgang vors andlega lífs hefir það hina mestu þýðing, að vér fœrum oss þessa starfsemi hennar í nyt, að oss sé þar að finna sem náðarmeðulin eru boðin fram. Sérstaka áherzlu leggjum vér á safnaðarguðsþjónustuna í kirkjunum í þessu sambandi. Sá, sem með kærleik og opnu hjarta tekr þátt í safnaðarguðsþjónustunni, mun fljótt komast að raun um, hvílíka þýðing hún hefir fyrir hann. Auðlegð guðs húss er oss þar boðin í ríkum mæli. Safnaðarguðsþjónustan verðr að vera þungamiðjan fyrir hin lifandi börn kirkjunnar. Þaðan vill drottinn láta blessan sína fljóta út yfir söfnuðinn ríkulega. Því þar lætr drottinn öll náðarmeðul sín verka í sameining eins og á einum brennipunkti til uppbyggingar þeim, sem trúa. Safnaðarguðsþjónustan á samkvæmt vilja drottins að vera hið sama fyrir oss og hjartað fyrir mannlegan líkama. Þaðan streymir blóðið til allra limanna á líkamanum. Einkum hefir kvöldmáltíðarsakramentið þýðingarmikið ætlunarverk. Vér vitum, að blessun sú, sem til vor flýtr frá kvöldmáltíðarborðinu, styrkir samfélag vort við guð og eflir samfélagið meðal vor innbyrðis.

Hvernig fær þá nokkur um það kvartað, að hann hafi lítið eða ekkert gagn af kirkjunni sinni, ef hann vanrœkir þá hjálp til að ná staðfestu og styrkleik, sem kirkjan vill láta honum í té?

(Meira.)



Í ritgjörðinni eftir Farrar „Það, sem mest er og bezt í bókmenntum heimsins"—þeim partinum, sem prentaðr er í síðasta blaði „Sam."—er minnzt á kenning Platons, heimspekingsins gríska, um þrískifting mannlegs eðlis: manninn, ljónið og hina marghöfðuðu ófreskju. Og er þar í fám orðum gjörð grein fyrir því, hvað hvert fyrir sig hinna þriggja atriða í líkingarmáli þessu á að tákna. Um *ljónið* er sagt, að það tákni ástríður reiðinnar og yfirlætisins, sem endilega verði að temja svo, að þær geti notazt í þjónustu þess, sem gott er, en ekki svo, að þær sé gjörðar að engu. Við þetta er fróðlegt að bera saman það, sem

Jón biskup Vídalín segir um sama efni á einum stað í postillu sinni. það er í prédikaninni á sunnudaginn eftir miðföstu (5. sd. í föstu) út af hinu gamla guðspjalli fyrir þann dag: Jóh. 8, 46—59. En þessi eru orð Vídalíns, sem hér er við átt:

„þar voru nokkrir spekingar í fyrndinni, er kölluðust *Stóicí*. þeir vildu dempa eina tilhneiging með annarri og setja þær svo í lag. En það er langsamt nokkuð og vinnst aldrei vel; því höfuðin á þeirri *Hydra*, syndum spilltri náttúru,—þau spretta jafnskjótt upp aftr, þó þau sé smámsaman af höggvin. [*Hydra* var einn vatnsormr með mörgum höfðum, svo sem skáldin dikta. þó eitt væri af höggvið, vóx það aftr; en Herkúles hjó á hálsinn, svo þau uxu aldrei síðan.*] Elskan til guðs er einn andlegr Herkúles, sá er hálsinn á skrímslinu sundr brýtr, svo þau ná ekki svo fljótt að vaxa. Hún setr tilheigingarnar bezt í lag,—ekki að hún taki þær burt eins og *Stóicí* vildu gjöra,—heldr þvingar hún þær til að gjöra sína skyldu og temr þær með frjálslegum og inndælum þrældómi. Hún kennir elskunni að elska guð alleina og ekkert annað, reiðinni að vandlæta í guðs stað, öfundinni að keppast sem hæst í Kristí skóla, örvæntingunni að vona einkis góðs af heiminum, voninni að þola og bíða, gleðinni að hafa sína unaðsemd í drottni, hryggðinni að angrast sinna synda vegna, hræðslunni að óttast guð, dirfskunni að óttast ei menninna, sem ekki kunna nema líkamann að deyða."

## Trúarsamtalsfundir.

Seint í Marzmánuði voru tveir slíkir fundir haldnir í norðrhluta Íslendingabyggðarinnar í Norðr-Dakota, í prestakalli séra Jónasar A. Sigurðssonar. Annar þeirra var haldinn í hinni nýju kirkju Pétrssafnaðar föstudaginn 25. Marz, en hinn næsta dag á eftir, laugardaginn 26., í kirkju Hallson-safnaðar, sem líka er nýreist—eins og um er getið í Nóvemberblaði „Sam." fyrir síðast liðið ár. Veðr var ekki sem notalegast um það leyti. það blés kaldr vindnæðingr báða dagana. En engu að síðr voru fundirnir báðir býsna vel sóttir, einkum hinn síðar nefndi. Á fyrra fundinum voru af prestum kirkjufélagsins auk séra Jónasar viðstaddir: séra Friðrik J. Bergmann, séra

*) Neðanmáls grein í postillunni.

N. Steingrímr þorláksson, séra Jón J. Clemens og séra Jón Bjarnason; og á hinum síðara sömu prestarnir nema séra Steingrímr, sem um morguninn þann sama dag varð að fara burt til embættisverka í prestakalli sínu. Hann prédikaði við guðsþjónustu, er haldin var á undan umrœðunum fyrra fundardaginn, og lagði út af Matt. 26, 22, einkanlega orðunum: „Hvort mun eg verða til þess, herra?“ Umrœðuefnið á þeim fundi var: *lúterska kirkjan*, sérkenni hennar á meðal annarra kristinna kirkjudeilda, og hvers vegna vér ættum að heyra henni til framvegis, kjósa oss þar stöðuga framtíðarvist. Séra Friðrik J. Bergmann hélt inngangsrœðuna á þeim fundi. Við guðsþjónustuna á undan samtalinu seinna daginn, í Hallson-kirkju, prédikaði séra Jón J. Clemens, og hafði hann fyrir texta guðspjallið á 3. sunnudag í föstu: Lúk. 11, 14—28 (útrekstr hins illa anda). En umtalsefnið, sem þá var tekið fyrir, var: *guðs orð*, og leiddi séra Jón Bjarnason það mál inn á fundinn með sérstakri rœðu. Á fyrra fundinum var lítið um beina hluttöku í rœðuhöldunum af hálfu leikmanna. En á seinna fundinum urðu miklu fleiri leikmenn til að tala, og voru umrœðurnar einkum þann daginn all-fjörugar og væntanlega fólki til eigi lítillar andlegrar uppbyggingar, enda lét almenningr hjartanlega ánœgju í ljósi út af fundarhöldum þessum.

* * *

Hinar tvær nýju kirkjur, sem fundir þessir voru haldnir í, eru enn þá eigi fullgjörar að smíðum til. Að mestu ógjört innan í þær, þá er fundarhöldin fóru fram. En hið ytra var smíð þeirra beggja lokið. Og lítr hvorttveggja húsið mjög prýðilega út. þær verða, þegar þær eru fullgjörar, einhver fegrstu og veglegustu guðsþjónustuhúsin, sem Íslendingar í Vestrheimi hafa enn komið upp, og að sumu leyti skara þær, einkum Hallson-kirkjan, fram úr öllum hinum, þótt ekki sé þær auðvitað nein veruleg stórhýsi, liggjandi eins og þær gjöra svo undr nálægt hvor annarri, með að eins fjögra mílna millibili, og heyrandi til söfnuðum, sem eru tiltölulega fremr fámennir.— Geta má nærri, að sumt af fólki safnaða þessara hefir lagt allmikið á sig til að koma kirkjunum upp. Og er þar, að því er Hallson-kirkjuna snertir, sérstaklega að geta frumbyggjans þar á staðnum, hr. Jóhanns P. Hallsonar, sem jafnframt er fyrsti

landnámsmaðrinn í hinni víðlendu og blómlegu Íslendingabyggð út frá Pembinafjöllum í Norðr-Dakota. Meðal annars hafði hann rétt á undan fundarhöldum þeim, sem að framan er getið, gefið hinni nýju kirkju sinni ágæta klukku, sem kostaði 100 dollara eða vel það. En að því, er snertir hina kirkjuna, þá í Pétrssöfnuði, þá á hún fremr öllum öðrum tilveru sína að þakka hr. Guðmundi Eiríkssyni, fyrrum bónda að Helluvaði við Ytri Rangá í Rangárvallasýslu á Íslandi. Það varð meðal safnaðarmanna ágreiningr nokkur í fyrra um það, hvar kirkjan þeirra skyldi standa. En þá bauðst þessi maðr ótilkvaddr til að leggja til kirkjustæði á landi sínu og koma svo kirkjunni upp sjálfr að öllu leyti með hjálp þeirri, sem hann fengi frá söfnuðinum, hvort sem hún yrði meiri eða minni. Og við þetta tilboð sitt hefir hann mjög drengilega staðið. Kirkjan, sem hann með hjálp velviljaðra manna í söfnuðinum hefir látið reisa, er fagrt minnismerki um göfuglyndi Guðmundar og konu hans. Ágreiningrinn út af kirkjubygging þessari, sem þegar var á drepið, varð að vísu orsök til þess, að nokkrir menn gengu úr söfnuðinum, en eftir að kirkjan nú er komin svo myndarlega upp, er vonanda, að aftr verði bráðlega fullkomin sameining í kirkjumálum þar í byggðinni.

Væntanlega birtist seinna í blaði þessu nákvæm lýsing á hvorritveggja þessara nýju kirkna. Og komið hefir til orða, að „Sameiningin“ áðr en langt líðr kœmi með myndir af þeim báðum.

---

## Frá Minnesota.

Eftir séra Björn B. Jónsson.

---

Eins og til stóð var í sambandi við reformazíónardaginn, 31. Okt. síðastl., missíónar-starfsemin rœdd í söfnuðum þessa prestakalls. Aðalsamkoman fór fram í kirkjunni í Minneota og flutti við það tœkifœri dr. Wahlström, rektor lærða skólans í St. Peter, stór-merkilegan fyrirlestr um siðabótina. Samskota var leitað til styrktar trúboði kirkjufélagsins, og námu þau að upphæð tíu doll.

Um miðjan Nóvember fór fram trúarsamtalsfundr í St. Pálssöfnuði. Voru þar, auk annarra, fulltrúar allra safnaða

prestakallsins saman komnir. Umrœðuefnið var: „helgidagshald". Samskonar fundr var haldinn í Lincoln-söfuði 11. Febr. þar var rœdd spurningin: „Hvað er það að vera kristinn maðr?"

Um jólin voru jólatréssamkomur haldnar í öllum kirkjunum. Tóku sunnudagsskólabörnin mikinn þátt í þeim og allar fóru þær prýðilega fram.

Nýlega gaf hr. Vilhjálmr Schram kirkjunni í Minneota einkar fallegan og vel gjörðan skírnarfont. Er hann smíðaðr úr eikarvið og mjög útskorinn. Ber öllum saman um, að það sé listasmíð og hefir hr. Schram gjört allt verkið sjálfr. Á hann miklar þakkir skilið fyrir velvilja sinn.

Á pálmasunnudag fór fram ferming (2 ungmenna) og altarisganga í Marshall og á páskum í Minneota. Páskaguðsþjónustan í Minneota var sú fjölmennasta, sem nokkurn tíma hefir verið haldin hér; margt fólk úr hinum söfnuðum prestakallsins viðstatt. 24 börn voru fermd við þessa guðsþjónustu og 130 manns voru til altaris.



ALDAMÓT fyrir síðast liðið ár komu, eins og við var búizt, hingað vestr frá Íslandi skömmu síðar en Marz-nr.ið af „Sam." var prentað. Efni ritsins er þetta: *Út úr þokunni* eftir ritstjóra „Sam.", kirkjuþings-fyrirlestr frá því í fyrra; *Filippus Melankton*, fyrirlestr eftir ritstjóra „Aldamóta", séra Friðrik J. Bergmann, til minningar um 400 ára afmæli hins fræga samverkamanns Lúters, fluttr í Winnipeg og víðar í Febrúar 1897; *Guðs orð*, rœða eða fyrirlestr, sem séra Björn B. Jónsson flutti á kirkjuþingi síðasta til inngangs umrœðna um það mál; *þrjú kvœði* í íslenzkri þýðing séra Valdemars Briem: „Auga guðs" eftir Victor Hugo, „Á kastalaveginum" eftir Chr. Richardt, og „Far veröld, far vel" eftir Kingo. þetta síðast nefnda „kvæði" er sálmr, sem til er áðr á íslenzku í tveim eldri þýðingum („Far veröld, þinn veg", þýðing séra Helga Hálfdanarsonar í nýju sálmabókinni, og „Mér, heimr, far frá", þýðing séra Kristjáns Jóhannssonar í aldamóta-bókinni og sálmabókinni frá 1871).—Í seinasta versi þessa sálms er augsýnilega tvöföld prentvilla. þar stendr:

„Ó, fagnaðar*stund*,
er *heim* ég í eilífðar inndælan lund!"

Í staðinn fyririr orðið „fagnaðar*stund*“ á hér vafalaust að standa „fagnaðar*fund*“—það útheimtir rímið—, og í staðinn fyrir „*heim*“ orðið „*kem*“.

Seinasti þáttrinn í þessu „Aldamóta“-hefti er eins og áðr hefir tíðkazt ritdómar og bókfræðisathugasemdir eftir ritstjórann („Undir linditrjánum“). Þar er meðal annars talað um Biblíuljóð séra Valdemars Briem, fyrra bindið, Þyrna, ljóðasafn Þorsteins Erlingssonar, ritgjörð Jóns Jónssonar í Safni til sögu Íslands um Skúla Magnússon, Landfræðissögu Þorvaldar Thóroddsen og sitthvað fleira.

„Aldamót“ eru til sölu á sömu stöðum og áðr hefir verið: hjá ritstjóranum séra Friðrik J. Bergmann, séra Jónasi A. Sigurðssyni, séra Birni B. Jónssyni, hr. Halldóri S. Bardal, ritstjóra „Sam.“, hr. Jóni Björnssyni (á Baldr), hr. Gesti Jóhannssyni (í Selkirk), hr. Bjarna Marteinssyni (við Íslendingafljót) og víst enn fleiri mönnum hér vestra.

Verðið er 50 cent eins og áðr. Ágóðinn af sölunni rennr í skólasjóð.

LEIÐRÉTTING. —Í neðanmálsgreininni í seinasta blaði „Sam.“, bls. 5, er ljót prentvilla: „Íslenzkt *forngripasafn*“ í staðinn fyrir „Íslenzkt *fornbréfasafn*“. —Í „Aldamótum“ eru og þessar slæmar prentvillur auk þeirra, sem þegar eru leiðréttar: á bls. 109 *fagra* fyrir *fegra*, á bls. 113 *myndunartímabilið* fyrir *myndunartímabilin*, á bls. 116 *lífernið* fyrir *lífernis* og *hennar* fyrir *hinar*, á bls. 119 *hafði fram* fyrir *lagði fram*, á bls. 121 *en gefr* fyrir *er gefr*.



„SAMEININGIN“ kemr út mánaðarlega, 12 nr. á ári. Verð í Vestrheimi: $1.00 árg.; greiðist fyrirfram. —Skrifstofa blaðsins: 704 Ross Ave., Winnipeg, Manitoba, Canada.—Útgáfunefnd: Jón Bjarnason (ritstj.), Friðrik J. Bergmann, Jón A. Blöndal Björn B. Jónsson og Jónas A. Sigurðsson.

PRENTSMIDJA LÖGBERGS — WINNIPEG.